Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

14. tölublað Þriðjudagur 19. apríl 1977 6. árgangur Verð kr. 60.




# Baráttueining 1. maí

Myndin er frá göngu Baráttueiningar 1. maí 1976.



BARÁTTUEINING 1. MAÍ hefur nú hafið fullan undirbúning undir aðgerðir sínar á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsstéttarinnar.

Fyrsti undirbúningsfundurinn var haldinn í Lindarbæ á laugardaginn var, 16. apríl. Fundurinn var vel heppnaður og hann sóttu milli 40 og 50 manns í allt. Á fundinum komu félagar úr Nemendaleikhúsi Leiklestarskóla ríkisins fram og sýndu tvo leikþætti eftir Bertold Brscht, Úrræðið og Undantekninguna og regluna.

Sýning nemendaleikhússins var eins konar generalprufa, því frumsýning þessara leikþátta var ekki fyrr en laugardaginn 18. apríl, þá fyrir fullu húsi.

Gerðu fundarmenn góðan róm að sýningu nemendaleikhússins og var þeim fagnað ákaflega í lok sýningarinnar.

Á eftir sýningunni skiftu fundarmenn sér í umræðuhópa og ræddu undirbúninginn undir 1. maí aðgerðirnar.

Almenn þátttaka var í umræðunum og á fundinum ríkti starfsandi og baráttuhugur.

## Bertold Brecht í Lindanbæ

Nemendaleikhúsið, nemendur í Leiklistarskóla ríkisins, hafa nýlega byrjað sýningar á tveim leikritum eftir þýska leikrita- og ljóðskáldið Bertold Brecht. Bertold Brecht (1898-1956) er óþarft að kynna, verkalýðssinnuð verk hans hafa víða borið hróður hans.

Fyrra leikritið, Úrræðið, fjallar um kommúnistaflokkinn og einstaklinginn. Sendisveit er komin Moskvu til Kína til að aðstoða kínverska kommúnista og miðla þeim af reynslu hinnar alþjóðlegu byltingarhreyfingar. Sveitin fær sér til fulltingis kínverskan kommúnista. Ýmsar "vinstri"hentistefnuvillur kínverska kommúnistans stofna starfi hópsins í hættu. Þessar villur í starfi - hverra einkenni er byltingaróþreyja og ofmat á fjöldanum - hafa alvarlegar afleiðingar í för með sér.

Framhald á síðu 3.

| | |
|---|---|
| Ársáskrift......... | 3000 kr. |
| Hálfsársáskrift........ | 1800 kr. |
| Ársfjórðungsáskrift.. | 1000kr. |
| Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)........ | 5000 kr |

## Alsherjarverkföll: í hvera þágu

Allsherjarverkfall launþega blasir nú við í maí eða júní. Verkalýðsforystan hefur nú í hálft ár eða frá því ASÍ-þinginu lauk talað digurbarkalega um það að tími varnar-og undanhalds sé liðinn. Nú skuli sótt fram og kaupmætti maímánaðar 1974 náð aftur (100 þús. kr. krafan). Þetta hálfa ár hefur verðbólgan enn haldið áfram að rýra kaupmáttinn og þannig gert verkafólk enn verr undir komandi kjaraátök búið. Við það hafa launþegar þurft að sætta sig þar sem samningar eða bráðabirgðalög binda þá. 15. maí renna 6. sept. lög Matthíasar Bjarnasonar út og þá verða einnig velflestir hópar launþega komnir með lausa samninga (þó ekki t.d. félagar BSRB). Þá leyfist okkur verkafólki að fara í verkfall - kannski í viku - kannski í mánuð. Hversu lengi slíkt verkfall stendur veit enginn. Það eitt er víst að ef forystuliðið fær að ráða fara allir í einu. Allsherjarverkfall er orðið að trúaratriði hjá uppkeyptu forystunni, enda mest í hag borgaranna. Þannig verður baráttuhugur verkafólks best drepinn niður.

### Reynslan frá í fyrra.

Í febrúar í fyrra var eitt slíkt allsherjarverkfall. Í því skyldi nást fram 38% hækkun á grunnkaupið. Forystunni þótti 38% hækkun hæfileg því þá hefði náðst fram sami kaupmáttur og í maí '74 en hann virðist eiga að vera árviss draugur þar til Alþýðubandalagið gengur næst inn í stjórnarsamstarf. En hver varð ávinningur þessa verkfalls? Jú, enn einir smánarsamningar sem viðurkenndu kjararýrnun undangenginna mánaða. Eftir tæplega hálfsmánaðar verkfall var skyndilega rokið til og samið um smánina.

Það var napur sannleikur að þegar grípa átti til verkfalls-



sjóðanna kom í ljós að Alþýðubankinn sem átti að "gæta þeirra fyrir verkafólkið" myndi fara á hausinn ef við þeim yrði hróflað þar sem hann hafði lánað Sunnu, Breiðholti h/f og fleiri bröskurum allt sitt lausafé. Þetta vissi Vinnuveitendasambandið og því biðu þeir bara.... er stefnt í verkföll í lok maí þegar loðnuflotinn er bundinn við bryggju og vart farið að lifna yfir byggingariðnaðinum. Tíminn gæti vart hentað borgurum betur.

Verkalýðsforysta sem raunverulega berst fyrir hagsmunum verkalýðsins hvetur ekki til notkunar verkfallsvopnsins nema það geti valdið stéttarandstæðingnum tjóni og knúið hann þannig til að ganga að kröfum verkafólks. Slík verkalýðsforysta

### Forystan vinnur gegn verkafólki

Forystuliðið í ASÍ hefur enn ekkert lært, eða öllu heldur það forherðist stöðugt í stéttsvikum sínum. Í fyrra var farið í verkfall á miðri loðnuvertíð en nú gæti beitt hluta stéttarinnar til að knýja fram bætt kjör allra. T.d. með verkföllum verslunarmanna í desembermánuði, byggingarmanna að sumri til og sjómanna eða fiskvinnslufólks á hávertíðum. Með slíkum aðgerðum sem raunverulega skaða borgarana má knýja þá til undanhalds.

Núverandi forysta ASÍ berst með klóm og kjafti gegn allri slíkri skipulagningu verkalýðsins. Í þess stað skipuleggur hún allsherjarverkföll til að þreyta launþega og gera þá andsnúna öllum aðgerðum. Hún berst gegn hagsmunum verkafólks en um leið afhjúpar hún sig og því vex andstöðunni gegn henni stöðugt fiskur um hrygg í öllum helstu félögunum.

VERKAFÓLK! BURT MEÐ STÉTTSVIKARANA - GERUM VERKALÝÐSFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM!

## Daoud Kaloti kemur til Íslands

Daoud Kaluti, fulltrúi frelsishreyfingar Palestínu (PLO) á Norðurlöndum hefur tilkynnt að hann muni koma til Íslands í lok aprílmánaðar í boði Íslensku Palestínunefndarinnar, sem stofnuð var í síðasta mánuði. Ætlunin var að D. Kaluti kæmi til landsins í febrúar, en þá gat ekki orðið af komu hans, vegna ýmissa ástæðna. D. Kaluti mun væntanlega tala á opinberum fundi í Reykjavík um ástandið í heimalandi sínu og baráttu PLO fyrir sjálfstæðri og frjálsri Palestínu. STÉTTABARÁTTAN hvetur alla andheimsvaldasinna og þá sem áhuga hafa á málefnum Palestínu til að fylgjast með auglýsingum um væntanlegan fund og fjölmenna til að hlýða á mál D. Kalutis. Íslenska Palestínunefndin sem stendur fyrir komu Kalutis hingað til lands, gekkst nýlega fyrir sýningu veggblaða og ljósmynda frá Palestínu og hóf í því tilefni söfnun fyrir Rauða Hálfmánann, sem er hjálparstofnun Palestínska Þjóðarráðsins. Þeir sem vilja láta fé af hendi rakna geta komið til Íslensku Palestínunefndarinnar Pósthólf 4302, Reykjavík. Stéttabaráttan hvetur alla til að styrkja góðan málstað. Fullan stuðning við PLO.

LEIÐARI

# Skæruverkföll í stað alsherjarverkfalla Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku

Samningarnefndir ASÍ og atvinnurekenda hafa nú hist og kynnt tilboð sín. 20 punkta tilboð atvinnurekendanna gengur út á enn meiri kjaraskerðingar og réttindamissi verkafólks. Greinilega ætla atvinnurekendur sér að bíða af sér allsherjarverkfallið, eins og þeir gerðu í fyrra. Þeir vita sem er, að eftir fáeinar vikur verður verkafólki ómögulegt að halda baráttunni áfram, þar sem ASÍ-forystan er óspör á undanþágur á meðan á verkfallinu stendur. Þeir vita líka, að allflestir verkamenn og konur verða að sleppa sumarleyfum sínum ef verkfallið verður langt, þannig fá atvinnurekendur verkfallið endurgoldið. Á sama tíma gerir ASÍ-forystan lítið annað en að hneykslast á atvinnurekendum og flýtur sofandi að feigðarósi. Allsherjarverkfall nú í maí, mun bíða ósigur eins og í fyrra, ef samningunum er ekki fylgt eftir með stöðugri baráttu.

Sérhver verðhækkun er stríðsyfirlýsing.

Þó svo samið verði um 100 þúsund króna lágmarkslaun, dugir það skammt í núverandi verðbólgu. Verkalýðshreyfingin verður að heyja stöðuga varnarbaráttu gegn kjaraskerðingaráformum auðvaldsins. Sérhver verðhækkun er stríðsyfirlýsing og henni ber skilyrðislaust að svara með skæruverkföllum. Í Finnlandi hafa stéttarbræður okkar nú háð skærubaráttu með góðum árangri í nokkurn tíma. Þar fer hver hópurinn af öðrum í verkfall og þannig er efnahagskerfi auðvaldsþjóðfélagsins lamað, án þess þó að allur verkalýður landsins þurfi að vera í verkfalli samtímis. Þannig mun líka auðnast að knýja atvinnurekendur til uppgjafar og vinna fullan sigur í baráttunni. Íslensk verkalýðshreyfing getur margt lært af finnskum verkalýð. Ef flutningaverkamenn myndu gera verkfall til að berjast fyrir lífvænlegum launum á 40 tíma vinnuviku, myndu þeir geta lamað þjóðfélagið gersamlega og auk þess gætu aðrir hópar verkafólks stutt baráttu þeirra fjárhagslega, þar sem þeir væru ekki í verkfalli. Sjómenn gætu framkvæmt samskonar verkfall og notið sambærilegs stuðnings og þannig er það með marga aðra hópa verkafólks. Í stað þess að láta atvinnurekendur sveita okkur til hlýðni, eigum við að skipuleggja baráttuna og ráðast á andstæðinginn þar sem hann er veikastur fyrir.

Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku.

Það er til marks um svik ASÍ-broddanna, að þeir hundsa nú gersamlega samþykktir margra verkalýðsfélaga, þ. á. m. Dagsbrúnar og Ráðstefnu járniðnaðarmanna, um 40 stunda vinnuviku á lífvænlegum launum. Í stað þess koma ASÍ-broddarnir dröslandi með sáttatilboðið "100 þúsund krónur lágmarkslaun" sem sérhver maður sér að getur ekki uppfyllt kröfur íslensks verkalýðs um að lifa af dagvinnukaupi sínu. ASÍ-broddarnir og aftaníossar þeirra í Fylkingunni og EIK ráðast gegn kommúnistunum og kalla okkur ævintýramenn. Er það ævintýramennska að vilja berjast fyrir lífshagsmunum verkafólks? ASÍ-foringjarnir kalla kommúnistana klofningsmenn. Erum við klofningsmenn, vegna þess að við viljum sameina verkafólk til baráttu í stað þess að sitja auðum höndum meðan ASÍ-broddarnir semja af okkur kaup og kjör á lokuðum samningafundum? Dæmi hver sem vil Kommúnistaflokkurinn setur fram kröfuna um "lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku" til þess að fylkja verkafólki til baráttu gegn kjaraskerðingunum. Við álítum að verkafólk eigi að geta lifað af dagvinnu sinni og erum reiðubúin til að berjast fyrir því með félögum okkar og öllum baráttufúsum verkamönnum og konum.

ÚR:

## DAGSBRÚNAR VERKAMAÐURINN

DAGSBRÚNAR VERKAMAÐURINN

Allir í Baráttueiningu 1. maí

Baráttueining 1. MAÍ

# Stofnið 1. maí nefndir

Öllum þeim sem vilja vinna að framgangi og uppvexti verkalýðshreyfingarinnar og uppvexti sósíalismans á Íslandi er mikið í mun að gera hinn alþjóðlega baráttudag verkalýðsins sem veglegastan. Allir sem vettlingi geta valdið verða að leggja hönd á plóginn til að stuðla að djúptækri samstöðu um aðgerðir, bæði fyrir og á 1. maí. Á vinnustöðum, í skólum og alls staðar þar sem kostur er skulum við taka höndum saman og stofna 1. maí nefndir. Í slíkum nefndum getur fólk komið sér saman um sínar sameiginlegu sérkröfur á 1maí, rætt skipulega stefnugrundvöll gangnanna og starfað að vinnslu fána, borða ofl.

Mikilvægt er við stofnun slíkrar nefndar að meðlimir hafi gert upp við sig að þeir vilja ekki 110þús kr. lágmarkslaun og stéttasamvinnupólitík ASÍ heldur einingu og starf á grundvelli stéttabaráttunnar, lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku, niður með alla heimsvaldastefnu, risaveldanna USA og Sovét ofl. Þ. í annars vegar eru undanslátur og auðbrétur, en hins vegar markviss framsækin barátta. Gerum 1. maí 1977 að ógleymanlegum degi einingar í stéttabaráttunni, það stælir og styrkir samstöðu okkar fyrir framtíðina. Nefndirnar geta haft samband við Baráttueiningu í Bókabúðinni Rauða Stjarnan Lindargata 15. sími 27810.

## ÚR BARÁTTUNNI

Verkföll sjómanna

Sá hluti Bráðabirgðalaganna frá 6. sept. sem sneri að sjómönnum á bátaflotanum rennur ekki út fyrr en 15. maí Hins vegar losnuðu sjómenn á stóru togurunum undan oki laganna um síðustu áramót. Tímasetning laganna er alls engin tilviljun heldur er hún beint miðuð við hagsmuni útgerðarinnar. Í lok maí og júníbyrjun er loðnuflotinn bundinn við bryggju og yfirleitt allar veiðar með daufasta móti. Að vísu er humarvertíðin í byrjun en stöðvun þeirra veiða mun fyrst og fremst bitna á fólki í fiskvinnslunni og sjómönnum á minnstu togbátunum, en þetta er eini tími ársins sem þeir ná ríflegri tryggingu.

Á þessum árstíma er allur togaraflotinn á þorskveiðum LÍÚ hefur þegar lýst yfir áhuga sínum að takmarka þorskveiðarnar við 275 þús. tonn í ár. Slík takmörkun krefst hins vegar róttækra aðgerða. Þeirra er þó varla að vænta þar sem frystihúsaeigendur heimta stöðugt meiri þorsk. Fyrir LÍÚ kæmi verkfall um mánaðarmótin maí-júní því sem himnasending, því þá yrði mannskapurinn aðeins sendur í kauplaust "frí" á meðan þorskurinn væri friðaður.

Sjómenn ná því væntanlega mestu fram ef þeir ákveða verkfallstímann þannig að það stöðvi loðnu- og síldarvertíðina samfara þorskveiðunum Það þýðir að verkföll í samfloti með ASÍ núna í vor virðist ekki vænleg leið fyrir sjómenn.

Framhald af baksíðu

# Endurskoðunarsinnarnir styðja harðstjórnina

ágóða af þeim. USA fá því argentínskar vörur svo til gefnar.

Laun voru fryst þannig að kaupmáttur er í dag um 50% lægri en árið 1974. Áður var heilbrigðisþjónusta veitt ókeypis, nú verður að borga. Í dag er landið í kreppu sem þýðir neyð og skort fyrir verkafólk.

Fjöldaverkföll

Hvernig hefur baráttan gegn harðstjórninni farið fram?

Strax sama daginn og valdaránið fór fram var gert verkfall við margar af stærstu verksmiðjunum.

Tvö mikilvæg baráttuform önnur hafa verið skemmdaverk á framleiðslunni og tafir.

Yfirvöld hafa reynt að brjóta andstöðuna á bak aftur en algjörlega mistekist. Dæmi um það er Raunaultverksmiðjan þar sem vinna yfir 10.000 manns. Fáum dögum eftir valdaránið voru 400 verkamenn reknir. Tilgangurinn var að koma í veg fyrir frekari aðgerðir verkamanna. En aðeins 2 mánuðum síðar hófst nýtt verkfall. Nú var 2000 sparkað. Engu að síður skall á verkfall þremur mánuðum síðar.

Ólöglegt starf.

Hvernig starfar Kommúnistaflokkur Argentínu (m-l) í dag?

Í dag tekur flokkurinn þátt í og leiðir mikilvægar aðgerðir gegn fasistastjórninni. Flokkurinn hefur eflst mjög og vinnur kröftugt starf í öllum hlutum landsins. Þrátt fyrir afsökninnar hefur flokkurinn aldrei verið atkvæðameiri heldur en nú. Við vinnum að allsherjarverkfalli gegn stjórninni. Auk þess stöndum við fyrir víðtækum skemmdarverkaaðgerðum. Í þessu starfi munum við skapa kjarnann að þeim alþýðuher sem í framtíðinni mun brjóta einræðið á bak aftur.

Þrátt fyrir að harðstjórnin hafi beint hörðustu ofsóknum gegn flokknum hefur okkur tekist að vernda flokkinn og stjórnum við ólöglega starfi okkar.

Flokkurinn gefur út reglulega aðalmálgagnið "No Transar". Auk þess getur sérhver flokkssella gefið út eigið útbreiðsluefni. Sökum ofsóknanna er útgáfa og dreifing ekki miðstýrð nema aðalmálgagnið. Það segir sig sjálft að við verðum að notast við frumstæð tæki en engu að síður nær raust flokksins til allra landshluta. Í verksmiðjum og annars staðar er t.d. oft dreift flugritum án þess náttúrulega að nokkur viti hver stóð að því.

Við höfum sellur á vinnustöðum og þar sem eru 2 sellur þekkja félagarnir ekki hver aðra persónulega. Einnig störfum við meðal hermanna, undirforingja og yfirmanna. Almennt séð er það mikilvægast að flokks félagarnir starfi í nánu sambandi við fjöldann.

Endurskoðunarsinnarnir styðja einræðið.

Hvert er hlutverk endurskoðunarsinnanna í Argentínu? Allir borgaraflokkarnir, einnig revisjonistarnir, hafa stutt einræðið því þeir óttast byltingarhreyfinguna og vona að herstjórnin geti barið hana niður og bundið enda á argentínsku byltinguna. En vegna vaxtar byltingarhreyfingarinnar hafa nokkrir borgaraflokkanna farið að gagnrýna einræðið. Endurskoðunarsinnarnir halda því fram að innan einræðisins séu tveir straumar, annar sé "lýðræðislegur" hinn fasískur. Þeir þykjast styðja þann "lýðræðislega". Í rauninni þá eru endurskoðunarsinnarnir að reyna að afla sér fylgis meðal smáborgara og borgara í Argentínu þar sem þeir hafa misst fótfestuna meðal verkalýðsstéttarinnar.

Endurskoðunarsinnar hafa staðið gegn allri baráttu verkalýðsins. Aukin barátta er því merki um að þeir hafa ekki lengur nein áhrif meðal verkafólks.

Rússadindlar.

Endurskoðunarsinnar í Argentínu eru svo trúir sovétstjórninni að þeir hafa gagnrýnt franska endurskoðunarsinnann Marchais fyrir "gagnrýna" afstöðu hans til Sovét. Að áliti þeirra er afstaðan til Sovét mikilvægasta spurningin í dag. Þeir vilja vinna hluta af argentínsku borgarastéttinni til fylgis við Sovét, og reyna að sannfæra hana um að verslun við rússa sé hagkvæmari en viðskipti við USA. Við lítum á revisjonista sem verslunaragenta fyrir Sovét.

Hlutverk USA og USSR.

Hvaða hlutverk hafa risaveldin í Argentínu? Staða USA styrktist við valdarán hersins. Eins og áður var sagt er meirihluti iðnaðar í Argentínu í höndum bandarísks fjármagns og einnig bankakerfið að 9/10.

Sovétríkin sem eru mikilvægasti viðskiptaaðili Argentínu og reyna að ná ítökum gegnum verslunina. Í dag neita USA að sleppa nokkru af sínum yfirráðum í Argentínu og Sovét stefna að auknum ítökum í framtíðinni. Þau vonast til að geta sýnt meiri styrkleika en USA og ná bamm- ig yfirráðum.

Í Argentínu voru ýmsir smáborgaralegir hópar sem vildu leita til Kúbu um "aðstoð" gegn hereinræðinu, á sama hátt og í Angóla. Þess vegna höfum við unnið sérstaklega að því að fletta ofan af hlutverki Kúbu og Angóla og þar með Argentínu. STaðreyndin er sú að Kúba studdi valdaránið í fyrra. Kúba hafði samning við Argentínu upp á 400 milljónir dollara, og því sendi útvarpið í Havana út stuðningsyfirlýsingu við herstjórnina daginn eftir valdaránið. Það sama gerðu útvarpsstöðvar í Moskvu og Prag.

HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357. Reykjavík, einnig í síma 27810 Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Stjörnunnar Lindargötu 15.

Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7

Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjarvíkurvegi 24.

Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c Keflavík.

*Önnur grein*

# Bandariska heimsvaldastefnan á undanhaldi

Í lok síðari heimsstyrjaldarinnar var Víetnam frönsk nýlenda. Reyndu frakkar með aðstoð lepps síns „Bao Dai keisara að halda völdunum. Bao Dai hafði verið stuðningsmaður japönsku fasistanna í seinni heimsstyrjöldinni. Ho Che Minh og skæruliðar hans höfðu verið leiðandi í baráttunni gegn Japönum og höfðu stofnað samfylkingu gegn þeim er nefndist Vietminh, sem orðinn var mjög fjölmenn og innhélt alla þá sem af einlægni vildu berjast gegn öllum erlendum árásarseggjum.

2. sept. 1945 samþykkti þjóðþing Hos sjálfstæðisyfirlýsingu, og Bao Dai var knúinn til að afsala sér völdum. Frakkland viðurkenndi brátt lýðveldi Hos og ákveðið var að halda þjóðaratkvæðagreiðslu um sameiningu Víetnams. Frakkar höfðu reist margar verksmiðjur í suðurhluta landsins og kom það á daginn að ætlun þeirra var að aðskilja þann hluta landsins frá norður - hlutanum. Kröfðust þeir einnig ítaka í efnahags og hermálum landsins. Skall þá aftur á styrjöld og létu frakkar fasistann Bao Dai aftur í hásæti í fransk stýrðri leppstjórn.

Tókst frökkum að halda styrjöldinni gangandi með aðstoð bandarískra auðherra, sem útveguðu þeim vopn. Beittu frakkar öllum þeim ógeðslegustu vopnum sem hægt var að hugsa sér, t.d. napalmsprengjum sem Bandaríkjamenn létu þeim í té.

Það er hlálegt að lesa það sem John F. Kennedy sagði, hann var þá öldungardeildaþingmaður, eftir að hann hafði heimsótt suðaustur Asíu. "..Í Indó-Kína styðjum við örvæntingafullar tilraunir franskra stjórnvalda til að halda í leifarnar af heimsveldinu. Víetnamska stjórnin (Bao Dai) nýtur ekki almenns stuðnings íbúanna í Víetnam. (Kennedy: Strategy of Peace, 1960. bls. 89.).

Eftir að hann varð forseti, jók hann hernaðaraðgerðir Bandaríkjanna í Suðaustur - Asíu um allan helming.

Í feb. 1954. snöggversnaði hernaðaraðstaða frakka og voru þeir orðnir svo aðþrengdir að þeir urðu að fallast á samningaumleitanir. Ákveðið var að efna til fundar í Genf 26. apríl. 1954. En frakkar voru ekki að baki dottnir, þeir reyndu að styrkja stöðu sína áður en til fundarins kæmi, og sýndu sitt rétta andlit er þeir sendu 200.000 manna úrvalsfallhlífahersveitir niður í þröngan dal yfir á yfirráðasvæði óvinanna, sem nefndur var Díenbíenphu.

Á meðan þessu fór fram sátu bandarísku leiðtogarnir á rökstólum og ræddu það hvernig best væri að hjálpa frönsku nýlendukúgurunum og hvernig þeir gætu best sloppið við að undirrita friðarsamningana.

Í marz biðu frakkar herfilegan ósigur fyrir liði víetnama sem var þó 7-8 sinnum liðfærra.

Er það var orðið ljóst að frakkar áttu sér ekki viðreisnar von í Víetnam lýstu bandarískir ráðamenn því yfir að nauðsynlegt væri að senda bandaríska hermenn til Víetnam. Er Genfarfundirnir hófust reyndu bandaríkjamenn með öllum ráðum að koma í veg fyrir að einhver árangur yrði af fundunum. Er undirritað hafði verið samkomulag reyndi fulltrúi Bandaríkjanna, fasistinn Dulles (utanríkisráðherra), með öllum ráðum að sniðganga það.

Vopnahléssamkomulagið (frá 21. júlí) skipti Víetnam í tvennt nokkurn veginn um 17. breiddarbauginn. Bandaríkjamenn féllust á það ákvæði að efnt yrði til frjálsra kosninga ekki seinna en tveimur árum frá því að samningurinn tæki gildi. Við vitum hvernig þeir hafa efnt það loforð. Í staðinn fyrir gefin heit reyndu bandaríkjamenn að treysta fasista og annað afturhaldslið í sessi með gífurlegum fjár- og vopnasendingum. Beitti þeir fyrir sig ríkisstjórn Ngo Ding Déms sem Bao Dai hafði gert að forsætisráðherra. Hann var hataður af öllum almenningi í Víetnam, en þrátt fyrir það sat hann við völd. -Bandaríkin höfðu fundið sinn Singmann Rhee í Víetnam-. Efling á völdum Díems urði til þess að ítök frakka fóru þverrandi en í staðinn jukust ítök bandaríkjamanna um allan helming. Bandaríkjamenn héldu uppi efnahagslífi Víetnams að allt að 90 %. Í stjórnartíð Kennedys harðnaði styrjöld sú er braust út milli þjóðfrelsisaflanna í Suður-Víetnam og Bandaríkjanna um allan helming og loftárásir á óbreytta borgara urðu daglegir viðburðir. Við vitum hvernig þessu stríði lauk, með fullum sigri þjóðfrelsisaflanna yfir bandaríska og suður-víetnamska afturhaldinu og núna fyrst 22 árum eftir að ákveðið var að efna til frjálsra kosninga í Víetnam hillir undir að þjóðin sameinist á ný.

Þetta er bara eitt dæmið af mörgum um hvernig kúgunareðli bandarísku heimsvaldasinnanna hefur orðið til þess að milljónir manna hafa látið lífið. Í Guatemala réðist fasistinn Carlos Castillo Armas inn í mið-Ameríku-lýðveldið Guatamala í því skyni að velta lýðræðislega kosinni stjórn Jakobo Arbenes. Tíu dögum síðar var lokið tíu ára valdaskeiði sósíaldemókrata í Guatamala og langvinn einræðisstjórn hægriaflanna hafin. Dulles utanríkisráðherra Bandaríkjanna fagnaði innrásinni ákaft, sem, að sögn hans sjálfs, bætti nýjum og glæsilegum þætti við hina ábætu hefð sem ævinlega hefur ríkt með þjóðum Ameríku. Þessi hefð sem Dulles fagnar svo ákaft er sú að kúga og pína alþýðuna sem mest og að gefa bandarískum einokunarhringjum, eins og t.d. United Fruit Company tækifæri á að raka að sér auði sökum mikillar auðlinda þessara landa og ódýrs vinnuafls. Sjálf Bandaríkjastjórn hafði lagt á ráðin um valdaránið og útvegað vopn og peninga og hún verndaði þá gagnvart SÞ. "Við höfum komið ýmsu skrambi góðu til leiðar, einkum á efnahagssviðinu og í fjarlægum löndum, í Íran og Guata-Mala".... Þetta sagði Eisenhower 1956.

Í Íran og Tyrklandi voru það bandarískir og breskir auðhringar sem réðu öllu þegar það kom til álita stjórnvalda að sporna við þessari þróun varð það ráð tekið af bandarískum stjórnvöldum eins og svo oft áður, að velta þessum ríkisstjórnum úr sessi og skipa einhverja þæga leppa í staðin, leppa sem leyfðu bandarískum auðhringjum að moka að sér gífurlegum fjármunum sem síðan fóru beint úr landi og urðu ekki til þess að bæta hin ömurlegu lífskjör almennings, því að þó þessi lönd bæði væru mjög auðug af ýmsum jarðefnum varð það ekki til þess að hagur alþýðunnar batnaði. En hvers vegna skilgreini ég Bandaríkin sem hnignandi heimsvaldaland? Jú, vegna þess að eftir valdatöku Krútsjoff í Sovétríkjunum 1956, hefur komið fram á sjónarsviðið annað superstórveldi sem einungis hugsar um að afla sér ódýrra hráefna og nýrra markaða og þetta stórveldi er í sókn í heiminum í dag. Sovétríkin hafa náð gífurlega góðum tökum í efnahagslífi margra ríkja, t.d. Kúbu og Austur -Evrópulandanna og eru sífellt að auka hernaðarmátt sinn í þeim tilgangi einum að geta hafið árásarstríð. Í Bandaríkjunum fer hnignandi vegna þess að þær nýlendur sem þeir hafa ráðið yfir eru umvörpum að kasta af sér okinu og kúguninni. Móthverfurnar sem eru í heiminum í dag þ.e.a.s. 1) Móthverfan milli alþýðu nýlendna og ófrjálsra ríkja annars vegar og heimsvaldastefnu og sósíalheimsvaldastefnu hins vegar. 2) Móthverfan milli borgarastéttar og öreigastéttar í auðvaldslöndunum og endurskoðunarlöndunum. / 3) Móthverfan milli auðvaldslandanna innbyrðis og milli endurskoðunarlandanna og auðvaldslandanna og 4) Móthverfan milli sósíalísku ríkjanna með Kína og Albaníu í broddi fylkingar annars vegar og auðvaldslandanna og endurskoðunarlandanna hins vegar. Þessar móthverfur heimsins eru einkennandi fyrir baráttuna og þá þróun sem við búum við í dag. Höfuðhreyfingin í heiminum er barátta verkalýðs og alþýðu fyrir þjóðfrelsi, sjálfstæði og sósíalískri byltingu. Gegn þessari óstöðvandi framrás sögunnar standa risaveldin, Bandaríkin og Sovétríkin. Þess vegna verðum við að sameina krafta okkar í baráttunni gegn báðum stórveldunum og styðja hverja þá hreyfingu í heiminum er berst fyrir sjálfstæði og sósíalisma.



Hermenn á verði við stjórnarráðið í Buenos Aires 24. mars í fyrra.



Argentínskir verkamenn að störfum

Annars eru bara tveir mánuðir síðan Sameinuðu þjóðirnar fordæmdu brot Argentínu stjórnar á mannréttindum. Þrjú af þeim löndum sem greiddu atkv. gegn fordæmingunni voru Kúba, Sovétríkin og Bandaríkin.

Alþjóðleg samstaða er nauðsyn

Í dag situr formaður Byltingarsinnaða Kommunistaflokks Uruguay (PCR), Mario Echenigue, í fangelsi í Argentínu. Já, þetta gerir sérlega mikilvægt að við tökum þátt í baráttunni fyrir frelsun hans. Fyrir því berjumst við og beinum starfinu aðallega að hinum mörgu Uruguay-búum í Argentínu. Baráttan fyrir frelsun Mario Echenique er mikilvæg fyrir alla marx-lenínískra bræðraflokka og öll lýðræðisöfl. Í dag eru góðir möguleikar á því að við getum sigrað þessa baráttu og fengið hann lausan.

Alþjóðleg samstaða er mikilvæg, ekki aðeins til að afhjúpa harðstjórnina í Argentínu, heldur til að virkja samstöðuna með þeirri baráttu sem við heyjum. Það er nauðsynlegt að sýna fram á að argentínsk alþýða þjáist ekki aðeins undir hæl fasismans heldur að hún heyr baráttu gegn honum. Við teljum að það sé mögulegt að brjóta einræðið niður innan ekki mjög langs tíma og möguleikar eru á því að ástandið leiði til borgarastyrjaldar. Það er því firnamikilvægt fyrir okkur að geta reitt okkur stuðning alþýðunnar í Evrópu. Slík alþjóðleg samstaða getur flýtt fyrir falli fasismans.

Klassekampen 29. mars.

Framhald af forsíðu

## Bertold Brech i Lindanbæ

Á frábæran - en hrífandi hátt - sýnir leikurinn fram á hvernig einstaklingurinn og hagur hans verður að lúta hagsmunum heildarinnar.

Hitt verkið er Undantekningin og reglan og fjallar um stéttaandstæður og nýlendukúgun í Kína. Þar er dregin upp mynd af erlendum kaupmanni í kapphlaupi um viðskiptaréttindi og afstöðu hans og samskipti við kínverska alþýðu, leiðsögumann og burðarkarl. Allar stéttir hafa þarna fulltrúa sinn smáborgarastéttin - höll undir auðvaldið - kemur fram í líki veitingahússeigandans. Þjónkun lögreglu og dómstóla við auðvaldið er eftirminnilega lýst.

Uppsetning leikhússins var með ágætum. Leikmyndir voru einfaldar en samt alveg nægar til að skapa leikurunum hæfilega aðstöðu.

Leikur var góður, þó að öllum ólöstuðum megi segja að Guðrún Gísladóttir hafi farið á kostum í hlutverki kaupmannsins. Kærar þakkir til Nemenda leikhússins fyrir frábæra skemmtun, skemmtun sem kemur þvert á einstefnubraut borgaralegrar listar. Meira af svo góðu.

Leiksins verður vonandi getið síðar í Stéttabaráttunni. Við hvetjum allt fólk til að leggja leið sína niður í Lindarbæ og njóta þar verkalýðssinnaðrar listar.

## 1. Landsráðstefna KFÍml

Í 13. tölublaði STÉTTABARÁTTUNNAR var skýrt frá Ráðstefnu Kommúnistaflokksins sem haldin var um páskana. Þar voru einnig birtar ályktanir Landsráðstefnunnar, en vegna mistaka, gleymdist ein ályktunin, sem birt er hér að neðan. Hún fjallar um sameiningarmál íslenskra marxista-lenínista.

Ályktun um sameiningu íslenskra marxista-lenínista.

Ráðstefnan ályktar, að í öllum sameiningarmálum verði gengið út frá niðurstöðum 3ja landsfundar miðstjórnar Kommúnistaflokksins. Það sem er mikilvægast er, eins og segir í fyrsta lið samþykktarinnar: Eining og styrking Kommúnistaflokksins er forsendan fyrir sameiningu marxísku-lenínísku hreyfingarinnar á Íslandi.

Sú fjandsamlega afstaða sem fram hefur komið undanfarið í málflutningi EIKm-l undanfarið er skaðleg og hættuleg fyrir einingu marxísku-lenínísku hreyfingarinnar. Orsakarinnar fyrir þessari þróun er fyrst og fremst að leita til þess hóps sem reyndi að sundra Kommúnistaflokknum um áramótin. Við vörum félaga í EIKm-l við að taka upp starfsaðferðir þessara manna.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
14. tbl. 6árg. 19/4 1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




## Minnkandi afli og lausn Alþýðubandalagsforystunnar

Þristirni Alþýðubandalagsins þeir Lúðvík Jósefsson Kjartan Ólafson og Ólafur R Grímsson halda nú óspart fram á almennum fundum "nýjum" valkosti í uppbyggingu íslensks atvinnulífs. Að þeirra sögn hefur alþýða landsins um tvo kosti að velja. Önnur leið afturhaldsins stóriðjustefnan, hin er þjóðlega leið Alþýðubandalagsins, þ.e. stórfelld uppbygging íslenska togaraflotans.

Þessi stefna er skýrt orðuð í leiðara 3ja tölublaðs Vestfirðings, málgagni Alþýðubandalagsins. Þar segir m.a.: "Fiskveiðiauðlind okkar verðum við að nýta, en það verður ekki gert nema við eigum til þess skip og vinnslutæki sem taka við þeim stóraukna afla sem í vændum er. Að þessu verður að vinna og það starf verður að hefjast strax. Þetta er mikið átak sem kostar mikið fé og mikla vinnu". (Tilvitnun lokið).

### Stefnt að aukinni rányrkju.

Þessi valkostur Alþýðubandalagsins felur í sér miklar hættur. Stóraukning íslenska togaraflotans og þar af leiðandi aukin sókn mun óhjákvæmilega leiða til viðkomubrests hjá þorskstofninum og samfara því til algjörs efnahagshruns. Vert er að minnast þess að álsamningurinn var einmitt undirritaður þegar slíkt hrun blasti við. Hér er því ekki um að ræða neinn valkost fyrir alþýðuna heldur myndi þessi stefna aðeins leiða til þess sama og stóriðjustefna íhaldsins þ.e. opna landið enn frekar fyrir fjölþjóðahringum.

AB-forkólfarnir ganga í öllum sínum rökum út frá því að fiskiskipaflotinn sé of lítill eða muni a.m.k. verða og lítill í byrjun næsta áratugs. E.t.v. telja þeir sig hafa lesið þessa visku út úr Svörtu skýrslu fiskfræðinganna en þar er talið að fá mætti 4-500 þúsund tonn árlega af þorski af miðunum ef stofninn fengi að rétta úr sér. (Í fyrra veiddi íslenski flotinn aðeins um 275 þús. tonn af þorski). Þannig draga AB-forkólfarnir þá ályktun að það þurfi fleiri skip til að draga þennan aukna afla úr sjó. En þar hafa þeir heldur betur snúið hlutunum á hvolf. Því í Svörtu skýrslunni segir nefnilega um þessi mál: "Ef sóknin yrði minnkuð um helming myndi slíkt ekki aðeins þýða nokkurn veginn sama aflamagn þegar til lengdar lætur, heldur myndi afli á sóknareiningu vaxa verulega strax, sem þýðir í raun mun arðbærari veiðar en áður" Síðar í skýrslunni segir: "Jafnvel þótt erlend veiðiskip hyrfu af miðunum er íslenski fiskiskipastóllinn of stór til hagkvæmrar nýtingar þorskstofnsins eins og sókn íslenska flotans er háttað í dag". Aðvörunarorð fiskifræðinga og raunveruleikinn eins og hann blasir við á miðunum hefur opnað augu margra fyrir þeirri rányrkju sem stunduð er á miðunum. Jafnvel LÍÚ sem varla mun teljast til framsækinna afla þjóðfélagsins hefur krafist aðgerða til að draga úr sókninni. En AB-forystan rennir hér sem víðar blint í sjóinn og hvetur enn til uppbyggingar flotans.



Lúðvík Jósepsson.

"Mér er sama hvað þið segið, í minni sveit er 30 cm þorskur kynþroska".

### Hver fjármagnar uppbygginguna

Skyndileg uppbygging togaraflotans á sínum tíma stuðlaði óneitanlega að bættu atvinnuástandi á þeim stöðum sem fengu togara, ekki síst ef byggðalagið fékk tvo eða þrjá togara. Heildarþorskaflinn er hins vegar þegar á niðurleið aftur svo ljóst er að nær eingöngu varð um að ræða tilflutning milli löndunarstaða. Ef fleiri togurum verður enn bætt við mun afli á hvern togara taka að dragast saman uns stofninn að lokum hrynur.

AB-forkólfarnir láta sem þeir viti ekki að krafa þeirra felur í sér að óráðsíufjárfestingar verði stóraauknar og grundvöllur þeirra tryggður með enn auknu arðránshlutfalli. Þeir láta sem þeir skilji ekki að eina raunhæfa lausnin er bætt skipulagning veiðanna og vinnslunnar sem taki mið af skynsamlegri nýtingu fiskistofnanna.

/Rvk, 12.4. 77.

## Sovétmenn og Kubanir standa að innrásinni í Zaire

### Sovétmenn og kúbanir standa að innrásinni í Zaire

Innrásarliðið í Zaire hefur nú verið stöðvað í sókn sinni inn í Shaba-hérað (fyrrum Katanga). Milli 7 og 10 þúsund málaliðar réðust inn í Zaire frá Angóla í lok síðasta mánaðar og reyndu að taka hið auðuga Shaba-hérað herskildi. Í málaliðinu eru herlögreglumenn hins illræmda lepps bandarísku leyniþjónustunnar CIA, Moise Tsjombe auk kúbanskra og sovéskra liðsforingja og hernaðarráðgjafa.

### Sovétmenn og kúbanir neita aðild að innrásinni.

Sovétmenn og kúbanir hafa harðlega neitað þátttöku sinni í innrásinni í Zaire. Þeir fullyrða, að hér sé um innanlandsstríð að ræða og segjast styðja "þjóðfrelsisöflin" í Zaire. Þeir hafa fordæmt vestræna fréttamenn og kínversku ríkisstjórnina fyrir umsagnir þessara aðila um innrásina á opinberum vettvangi. Í stað þess reyna þeir að láta líta svo út, sem Mobutu Sese Seko, forseti Zaire hafi engan stuðning landsmanna gegn innrásaröflunum. En staðreyndir eru harðar í horn að taka. Þegar hafa nokkrir kúbanskir liðsforingjar verið felldir á vígstöðvunum, svo þátttaka þeirra getur engum dulist lengur. Íbúar Zaire styðja forsetann í baráttunni gegn innrás sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar og nýlega var haldinn 100 þús. manna mótmælafundur gegn henni í Kinshasa höfuðborg landsins. Mótmælafundir hafa víðar verið haldnir, svo sem í höfuðborg Shaba-héraðs og í miðbaugs-héraði í borginni Mbandaka, var haldinn mótmælafundur, sem og í Baz-Zaire héraði. Þetta sýnir, að alþýða Zaire styður ekki innrásarliðið á neinn hátt.

### Afríkuríkin fordæma innrásina.

Fjölmörg Afríkuríki hafa fordæmt innrás málaliðanna og Máretanía hefur þegar sent 1500 hermenn til að aðstoða Zaire gegn innrásinni. Einingarsamtök Afríkuríkja sendu svohljóðandi skeyti til Mobutu: "fregnin um innrásina í Zaire, bróðurland og meðlim í Einingarsamtökum Afríkuríkja, hefur vakið fyrirlítningu ekki aðeins meðal meðlimslanda ESA, heldur meðal allra sem virða frið og frelsi". Uganda, Congo, Máretanía og fjölmörg önnur Afríkuríki hafa harðlega fordæmt innrásina. Fréttastofa Zaire bendir réttilega á, að innrásin þjóni þeim tilgangi einum, að koma Zaire undir rússneska stjórn og nota síðan landið sem stökkpall til þess að sölsa undir sig völdin í allr Suður-Afríku. Sovésku heimsvaldasinnarnir hafa stóraukið hernaðarbrölt sitt í Afríku og fyrir þeim vakir ekkert annað en að brjóta þjóðir Afríku undir nýlenduveldi sitt. Hérlendis hefur eitt dagblaðanna tekið upp Moskvuáróðurinn óþveginn, Þjóðviljinn. Það eitt sýnir raunverulegan stuðning Alþýðubandalagsins við sovésku sósíalheimsvaldastefnuna, sem þeir þora ekki að játa í orði.



Hinir nýju bandamenn Sovétstjórnarinnar í átökum á sínum tíma. Myndin sýnir katanska herlögreglumenn í útrýmingar árás gegn Baluba-kynstofnum í norður Katanga í febrúar 1961 Vopnin voru þá frá vestrænum verksmiðjum Nú eru vopnin frá rússneskum verksmiðjum, og liðsforingarnir kúpanskir.

## Endurskoðunarsinnarnir styðja harðstjórnina

24. marz s.l var liðið eitt ár frá uppreisn hersins í Argentínu. Þessi uppreisn leiddi til blóðugrar kúgunar á vinnandi alþýðu þar í landi og kom efnahag Argentínu að fullu í hendur heimsvaldastefnunni.

Stéttabaráttan birtir hér viðtal sem "Klassekampen" norska átti við fulltrúa Kommúnistaflokks Argentínu (marxista-lenínista). Í þessu viðtali upplýsir hann um kúgunina og andspyrnuna í Argentínu, um ólöglegt starf flokksins og þörf alþjóðlegrar samstöðu

ritstj.

Í Argentínu búa 25 milljónir íbúa. Landið 3 milljónir ferkíló metra að stærð eða 5 sinnum stærra en Frakkland. 80% íbúanna búa í stórborgunum. Um 5 milljónir verkamanna og 1 millj bænda eru í landinu.

Hvað snertir iðnaðinn þá eru 70% hans stjórnað af erlendu fjármagni. Af því er um 60% frá USA. Arfentína er mjög auðugt land og góð skilyrði fyrir landbúnaðarframleiðslu. Í landinu er um 60 milljónir kúa. En almenningur nýtur ekki þessara auðæfa. 5% þjóðarinnar á 80% af jarðeignum. Jarðeigendaveldið - gósseigendur ráða auðæfunum.

Höfuðborgin Buenos Aires hefur um 9 milljónir íbúa og bæði Rosario og Cosdoba eru milljónaborgir. Strandlengja Arfentínu er mjög löng og er mjög miklvæg fyrir USA til að geta stjórnað umferðinni milli Atlantshafs og Kyrrahafs.

### Bakgrunnur valdaránsins.

Hver var bakgrunnur valdaránsins ? Þegar árið 1966 var gert hernaðarkúpp í Argetínu. Markmið þess var að tengja landið nánari böndum við bandarísku heimsvaldastefnuna. 1966 fór uppreisnarbylgja um allt landið. Verkamenn stjórnuðu þannig milljónabænum Cordoba í 3 daga. Þetta þvingaði harðstjórnina til að leyfa kosningar. Samtímis myndaði stjórnin bandalag við alla borgaraflokkana um ráðstafanir til að berja byltinguna á bak aftur. Þeir reyndu að einangra baráttuna við þingræðisstofnanir.

Peronistarnir unnu kosningarnar 1973. En landið var þá í efnahagslegri kreppu og það sýndi sig fljótlega að peronistarnir gátu ekki gengið að kröfum alþýðunnar. Raunverulega stóð peronisminn fyrir málamiðlun milli verksmiðjueigenda og verkalýðsins.

Fólk sneri því aftur til byltingarsinnaðra forma í baráttunni. Peronisminn var afhjúpaður og voldug barátta verkalýðsstéttarinnar ýtti mjög undir byltingarhreyfinguna og byltingarhug fjöldans.

Peronisminn gat ekki barið þessa fjöldahreyfingu á bak aftur Þess vegna kom valdaránið 24. mars í fyrra. Þetta var fasískt valdarán og í samræmi við stefnu heimsvaldastefnunnar í Latnesku Ameríku. Kúppið í Argentínu fylgdi á eftir álíka atburðum í Brasilíu, Bólivíu, Uruguay og Chile.

Valdarán hersins í Argentínu þýddi tímabundna styrkingu heimsvaldastefnunnar í Latnesku Ameríku, en það sýndi einnig veikleika hennar því hún getur aðeins haldið völdum með aðstoð hernaðareinræðis. Við lítum á heimsvaldastefnuna sem sterkan óvin taktískt séð en veikan ef litið er yfir lengra tímabil.

### 30.000 pólitískir fangar.

Hvaða afleiðingar fylgdu valdaráninu í Argentínu? Eftir valdaránið var þinginu lokað og allri stjórnmálaflokkar bannaðir. Kosningar voru lagðar niður. Flokkur okkar varð algjörlega ólöglegur. Áður gátum við dreift áróðri en nú getur þátttakan í flokki marxista-lenínista leitt til fangelsunar og dauða. Alþýðusambandið var einnig bannað svo og stærstu verkalýðsfélögin. Verkfallsréttur var afnuminn og upphafin villimannleg kúgun. Meira en 30.000 pólitískir fangar sitja nú í fangelsum. Margir eru í einangrunarbúðum sem helst líkjast fangabúðum nasista í seinustu heimsstyrjöldinni. Yfir 700 manns hafa verið myrtir margir í fangelsum, aðrir á götum úti. Sumir hafa "horfið" sporlaust eftir að hafa verið teknir af lögreglunni.

### Launin eru fryst

Efnahagslega þýddi valdaránið að Argentína var algjörlega lögð í vald heimsvaldastefnunnar. Til dæmis voru sett ný lög, þess efnis að fyrirtæki sem flytja út vörur til USA fá engan

Framhald á síðu 2.